Sudur-Amtsins

# Reglugjørd,

áhrærandi

## Þorska-neta Brúkun,

í Njardvíkum, Kéblavík,
Leiru og Gardi, m.m.



Leirárgørdum, 1807.
Prentud af Bókþryckjara G. Schagfjørd,

## Konúnglegrar Hátignar til Danmerkur og Noregs, rc. Bestalter Stiptamtmadur yfir Islandi, og Amtmadur yfir þess Sudur-Amti, etc.

# Friderich Greifi af Trampe,

Gjøri vitanlegt: Ad þared fyrir mér er ákjært og sannad, hvørnig vid Neta-fiskiríid í Kébla- og Njardvíkum á nærstlidinni vertíd hefir vidgengist adskiljanlegt óreglulegt athæfi, móti Hans konúnglegu Hátignar allranáduguſtu bodum, í Reskripti af 18da Sept. 1793, af hvørri óreglu mikill hluti Innbyggjaranna, er tídkad hefir Aungul-fiskiríid á midum í Faxafirdi,

ad

ad søgn, hefir hlotid töluverdann skada og hneckir í bjargrædi sínu; svo, til framvegis ad afstýra slíkum lagabrotum, finn eg mig orsakadann til, hérmed á ný ad auglýsa, hvad konúngleg Hátign í þessu tilliti, med fyrrgreindri Tilskipun, af 18da Sept. 1793, allranádugast bodid hefir, hvar ad auki eg einnig, eptir allranádugast géfnum myndugleika, til ad fastsetja þær áqvardanir, er í því efni enn fremur kynnu naudsynlegar vyrdast, hefi, eptir kríngumstædum þessara tída, ályktad ad bæta því vid, er þessar nú sýnast ad útheimta, og þar hjá kunngjöra þær hegníngar, er tjedra boda yfirtrodslu=mönnum vísar eru, og verdur því hérmed til Almenníngs vitundar og eptirbreytíngar gjört heyrum kunnugt, svo og med eptirvæntu konúnglegu allranádugasta samþycki, tilskipad, sem eptirfylgir:

§. 1.

§. 1.

Pared Innbyggjararnir í Leiru og Gardi fyrir yfirstandandi ár, hafa gjørt tøluverdann Neta átbúnad, leyfist hinum sømu á þessa árs nú í hønd farandi vetrar-vertíd, ad brúka í Leiru 6 Netaskip, og í Gardi 3 Netaskip, hvørt skip med 6 edur 7 netum, og hvørt net af 30 fadma lengd, en eptir þann tíma skulu framvegis allar netaleggíngar fyrirbodnar vera í Leiru og Gardi — sem liggur nordantil vid Leiruna, og ennþá nær fiskfins fyrsta gángvegi fram med sjóarstrøndinni —; annars gjørist allur svo fenginn fiskiabli upptækur, og gjaldist þaradauki af hlutadegendum eins Ríkisdals sekt, þó má ad svo sløddu fyrst um sinn eptirlátid vera, ad 3 jardir, Gufuskáli, Stórihólmur og Hrúdurnes, hvør fyrir sig, útgjøri eitt netaskip med 6 netum af fyrrnefndri lengd, og leggja hin sømu í Leirunni.

§. 2.

Sømuleidis eru allar netaleggíngar undir og umhverfis Vogastapa, aldúngis fyribodnar, ad vidlagdu fiskiablans uppnámi og eins Ríkisdals sekt.

§. 3.

§. 3.

I Rèblavik og Njardvikum er netalegging leyfd fyrst úm sinn; þó svo, ad netin ecki leggist lengra í sjó út, enn móts vid hid svo kallada Stackserif, og ecki lengra inneptir, enn til hins frá Stapanum markada mids, er Innriskora nefnist, í réttri línu. Sérhverr, er fundinn verdur ad netaleggíngum fyrir utan þessi hér áqvordudu takmörk, álitist med því í 1ta og 2um §. tiltekna straffi.

§. 4.

Net megu ecki leggjast fyrr enn um Nón, ɔ: kl. 3 e. m., og egu þau ad vera aptur upptekin ádur klukk. er 8, edur einni stundu fyrir Dagmál, á næsta morgni, og má enginn láta net sín liggja í sjó um daga, nema þegar vegna háskalegs ovedurs er alls ófært þau ad sækja. Breyti nockurr hér á móti med ásettu rádi, álitist hann med fiskiablaus uppnámi og eins Ríkisdals sekt.

§. 5.

Einum og sérhverjum skal heimilt vera, ad leggja net sín á Sunnudags qvøld, svo næsta dags bjargrædi ecki ónýtist honum; sömuleidis

má og, á þeim tídum, nær órólegt vedur annars er fiskirlinu til hindrunar, og fiskimanna almúgi ásamt Tilsjónarmønnuuum, álita ad netaleggíng á qvøldum, sem gánga nærst undan Sunnuedur helgi-døgum, gæti ad líkindum gódur abli fengist, vera fiskurunum eptirlátid þá á slíkri tíd ad leggja net sín, þó svo, ad þeir, þá vedur leyfir, kappkosti ad taka þau svo snemma upp á nærsta morgni, ad engin forsómun tilhlýdilegrar kirkjugaungu edur Guds þjonustugjørdar þar af orsakist. En ef nockurr, án þess hans medfiskandi almúgi í sama fiskiplátsi, hafi í þessu tilliti ad sinu leiti sampyckur ordid, einn leggur net í sjó á nærstu qvøldum fyrir helga daga, setjist hann, auk ablans uppnáms, í Helgidags Brot.

§. 6.

Á einu 2gja-manna-fari megu ecki brúkast nema 3 net; á 4ra-manna-fari einasta 6; á 5 manna-fari einasta 7, og á 6manna-fari einasta 8 net, og má eckert net vera lengra enn 30 fadma. Reyniſt nockurr ad brúka **fleiri** edur **lengri** net, enn nú er sagt, gjeriſt slík net upptæk, en hann gjaldi þaradauki einn Rikisdal í sekt.

§. 7.

§. 7.

Verdi svo mørg fiskiskip edur bátar inntekin í fiskiverin, ad þad fyri sérhvørn bát þannig leyfda fadmatal, í samanlagdri summu, ecki gæti nægilegt pláts fengid innan þeirra, fyrir neta-leggíngar, hér áqværdudu takmarka, eru Tilsjónarmennirnir tafarlaust, fyrir medalgaungu sins yfir þá setta Sýslumanns, ad senda híngad skírslu um þad efni, og kann þá naudsynleg rádstafan í því tilliti strax ad væntast hédan gjørd.

§. 8.

Neta-leggíngar mega enganveginn byrja fyrir 14da Martii, og jafnvel ecki tídfast þá edur þar eptir, fyrr enn Tilsjónarmennirnir, eptir undangengnu samkomulagi med kunnugustu og reyndustu fiskimønnum, hafa álitid og áqvardad, ad tídin sé til netabrúkunar hentug ordin. Sá fiskari, er leggur net sín í sjó fyrir þann dag, er Tilsjónarmennirnir, med gjørdri Auglýsíngu, hafa fastsett til neta-brúksins byrjunar, hlýtur ad straffast med uppnámi fiskiablans og Tíu Ríkisdala sektum.

§. 9.

Til ad hafa umsjón med fiskiriisins reglulegu sókn og framqvæmd, skickar hlutadegandi Sýslu-

madur 4 af þeim rádvønduſtu, reynduſtu og kunnuguſtu mønnum í hværju fiſkiveri.

§. 10.

Ef nockur Tilſjónar-mannanna, mót von, brjóta mót þeim hér fyriſkrifudu reglum, ſetjiſt hann ſtrax frá því embætti, og bæti, auk uppnáms fiſkiablans, tvøfaldar ſektir. Sømuleidis á ſá Tilſjónarmadur, er ſýnir ſig hyrdulauſann og forſómunarſamann í þeſſu embætti, ſtrax frá því ad ſetjaſt, og undir eins múlkteraſt um einn edur tvo Rikisdali.

§. 11.

Allar þær Confiskationir og bætur, er til kunna ad falla, eptir þannig gjørdum Tilſkipunum, ſkulu ſkiptaſt jafnt millum Angkfarans og Hreppſins Fátækra. Yfirſjónirnar tilkynnaſt Syſlumanninum, ſem reſolverar í ſekinni, og án nockurs frekari Próceſs edur Dóms, exeqverar hid hér tilekna, áſamt Exekutions koſtnadinum.

Islands Stipts Sudur-Amts Contoir, þann 14da Febr. 1807.

Fr. Trampe.

Jón Borgfirdingur.